# SKÓLA HÁTÍD
Í MINNÍNGU
FÆDÍNGAR-DAGS
VORS ALLRANÁDUGASTA KONÚNGS
# FRIDRIKS SJÖTTA
ÞANN 28. JANÚARÍÍ 1832
ER HALDIN VERDR Þ. 29. JANÚARÍÍ 1832.
BODUD AF
KÉNNURUM BESSASTADA SKÓLA.

---

# ÓLAFS DRÁPA TRYGGVASONAR
ER HALLFREDR ORTI VANDRÆDASKÁLD,
UTGEFIN AF
*SVEINBJRNI EGILSSYNI.*



---

VIDEYAR KLAUSTRI 1832.
Prentad af Bókþryckjara Helga Helgasyni,
á kostnad Bessastada Skóla.

## F o r m á l i.

*Saga Olafs Tryggvasonar kvedr skírt á, ad Hallfredr Vandrædaskáld hafi ort tvær drápur um Olaf konúng: adra þann vetr, sem hann var skírdr i Noregi*[1], *hina, einu ári eptir fall Olafs konúngs*[2]. *Hvorugt þessara kvæda er til allt, en allmörg erindi úr bádum finnast i Olafssögu, Heimskrínglu og Fagrskinnu; hefir fyrri drápan ei gétid um annad, enn um uppvöxt Olafs i Gördum, hernad hans i Austrvegi og Vesturlöndum, og hvörsu hann komst til ríkis i Noregi; hin sídari hefir einkum verid greinileg um Svoldarorustu og sagnir manna um fall Olafs konúngs. En drápu þeirrar, sem prentud er á þessum blödum, gétr hvörgi, þad eg til veit, i nokkurri sögu; þyki mér líklegt, ad hún sé kvedin þeirra sídast: því i 27. erindi bendir til, ad fleiri skáld hafi þá verid búin ad kveda um Olaf, og i 20. erindi segir skáldid med glöggvari og vafaminni ordum, enn i fyrri drápunni, hvad hann vissi sannast*

[1]) Fornm. sög. 2. bindi, bls. 50—51.

[2]) Sama verk, 3. b., bls. 24.

*til Konúngsins seinast. Ad þessi drápa sé gérd í Islandi, og einkum fyrir Islendínga, þyki mér sem ráda megi af því, hvörnig skáldid kémst ordum ad um kristnibodid hér í landi í 13. og 14. erindi. Ad þad skáld, sem kvedid hefir Rekstefju (hvört sem þad hefir verid Markús lögsögumadr Skéggjason, eda Steinn skáld Herdísarson, eda Steinn prúdi Skaptason), hafi stælt eptir þessari Olafsdrápu, þykir mér eigi ólíklegt, því þrádrinn í bádum kvædunum er allr hinn sami framan af* [1]*, og stöku þánkar og ordatiltæki söm eda svipud* [2]*, líka sýnist stefid í Rekstefju tekid vera úr þessari drápu* [3]*.*

*Þessi drápa stendr á þeirri skinnbók, er finnst í bókhlödu Svíakonúngs í Stokkhólmi, og kallast Konúngabók af Bergi ábóta* [4]*. Hra.* Kateket *og yfirkénnari* Þorgeir Gudmundsson *skrifadi drápuna eptir þessari skinnbók, þá hann fyrir nokkrum árum fór til Stokkhólms fyrir hid konúngl. norræna Fornfrædafélag, og sendi mér afskrift af henni nokkru sidar;*

[1]) Rekst. 2—11, sb. Olafsdr. 3—12.

[2]) Rekst. 1. sídari helm., sb. Olafsdr. 2. síd. helm., Rekst. 5, 4. sb. Olafsdr. 5, 8., Rekst. 8. fyrri helm. sb. Olafsdr. 10. fyrri helm.

[3]) Olafsdr. 11, 6.

[4]) Henni er lýst í formála vid Fornm. sög. 4. bindi, bls. 18—19.

*gat hann þess um leid, ad tvö blöd hafi vantad i bókina á eptir 16. erindi í drápunni, og segir líkindi til, ad þau hafi verid úr skorin. Því blada stúfarnir sjáist eptir í kjölnum; þess gétr hann og, ad næst á eptir drápunni hafi í bókinni komid Lilja, þarnæst Geisli, og sídan saga Olafs helga. Þessi drápa, þannig afskrifud af Hra. Þ Gudmundssyni, verdr hérmed útgéfin, og hefi eg ekki annad unnid ad henni, enn þad, ad eg hefi sett til venjuleg áherzlumerki og málsgreinateikn: þau sídari eptir því, sem mér þótti efni til haga; en þar, sem samhlaup urdu fleiri málsgreina í vísuhelmingi, hefi eg lokad hverja sèr inn í innsetningarmerkin () og [], ad dæmi Hra. próf. Rasks í Snorra Eddu (útg. Stokkh. 1818); einnig hefi eg adgreint æ og œ, samkvæmt Lestrarkveri ens sama, útg. Kaupmh. 1830. Þarnæst hefi eg lagfært einstöku órd, þar sem eg hélt vera rángt skrifad eda lesid; hefi eg hvörgi gért þetta, nema þar, sem meining eda bragarháttr krafdi þess, og allstadar vísad til, hvad afskriftin hafdi, svo þeir, sem betra skyn hafa á, géti lagfært, ef mér kann einhvörstadar hafa yfirsézt. Loksins hefi eg bætt vid fáeinum útskíringum yfir helstu fornyrdi og kénníngar, og sídast fært vísurnar í þá röd, sem vant er ad hafa í sundrlausri rædu.*



## ÓLAFS DRÁPA TRYGGVASONAR

## ER HALLFREDR ORTI VANDRÆDASKÁLD.

1. Yfirhildíng bid ek aldar
einn hródtölu beina [1])
mèr, þanns mestom stýrir
mætti hverrar ættar:
þvíat veglyndum vanda
vin þínum skal ek, Rínar,
brag, þeim er bjartleyg fögrum
baud ótta, gud drottinn!

2. Mætr hefir minna látid
mik stólkonúngr sólar
snjallr, en sómdi þolli
sverdels, bragar verda;
þó vil ek Þróttar [2]) skýa,
þeim er engr var beima,
eldveitanda [3]) ítrom,
alfrídri, lof smída.

[1]) *beinar*, *afskr.* [2]) *þóttar*, *afskr.* [3]) *eldveitandi*, *afskr.*

---

1. erindi: yfirhildíngr aldar hverrar ættar, yfirkonúngr allra manna, gud. Hródtala, lofkvædi, Bjartleygr, bjartr eldr; b. Rínar, gull; bjóda ótta gulli, vera mildr af fé.

2 er: sólarstóll, himin, hans konúngr, gud. sverdel, orusta, h. þollr (vidr), konúngrinn. Þróttr, Odin, Þróttarský, skjöldr, hans eldr, sverd.

3. Nefndr var úngr, sá er efndi,
ýta vördr, í Gördum
œskigaldr [1]) vid aldir,
Olafr fyrir mér, stála.
Eldstǫkkum safk[2]) ekki
öll hygdi vel snjöllum
hafs nema hilmi jöfra
heims bygd syni Tryggva.

4. Reggstrindar bad randir
rádfimr bera snimma
jóskreytandi ýta
audmildr á skip raudar.
Frá reist framr (en sýgjor [3])
flód könnudu gódar)
foldar hríng til fengjar
fóstrjörd konúngr bördum.

5. Vestr hélt varga nistir
vídfrægr lagar skídum
(ár raud úngr í þeirri)
England á vit (branda).

[1]) *œskibaldr*, *afskr.*; *æ. stála er mannkénning, en þá vantar botninn í meininguna.* [2]) *kannske sásk eda sákk?* [3]) *skýgor eda skygost*, *afskr.*

---

3. er., œskigaldr stála, orusta: Hafs eldr, gull, hafs eldstökkvir, madr; líka mætti álíta hafs eldstökkr, sem vidnafn, mildr af gulli.
4. er: reggstrind, sjór, hans jór skip. Sýgja, umfar bord í skipi.
5. er: nistir, fœdir; í þeirri, nfl. ferd; á vit, til:

Fyrr vann ödlíngr errinn
(eingr), en Noreg fengi,
(harri [1]) var hilmi dýrri)
hefnd síns födur efnda.

6. Rak, sá er rausn vann mikla,
rjódr med gengi þjódar
víga bords, ok verdar [2])
vestr hernad, fèkk erni [3]).
Endr frá ek borgir brendar
(brandr gall) á Irlandi
[blèso vè], þar er vísi
vígmódr um-kom glódum.

7. Brunnu ból, en runnu
(böl vann gnógr) til skógar
(lýda sveit, ádr lèti [4]),
limgarmr) Skotar armir.
Ok hrynslódar heidinn
herr für elda þverri
vögnu vítt um eignadr [5])
vapnbautinn fèll Gauti.

[1]) *harr*, *afskr.* [2]) *vardar afskr.* [3]) *erin*, *afskr.*
[4]) *kannskė lètti.* [5]) *eignad*, *afskr.*

errinn, knár.
6. er: vígabord, skjöldr, hans rjódr, hermadr; vè, strídsmerki, vígmódr, hugadr í bardaga.
7. er: limgarmr, eldr; vagna, hvalr, vögnu hrynslód, sjór, hans eldr, gull; bautinn, bitinn. Gautr, Odin.

8. Snarr bar sigr or hverri
sárlóms mötodr [1]) rómu
(hæst gekk hreggbjódr) lista
(hvar [2]) lands er kom, randa [3]).
Gnóg var vist ok, vestan,
vel drengila fengin,
mærr ádr mildíngr fœri,
margspám [4]) grám vargi.

9. Austr þíngat kom ýngvi
ádr, frá ek jarl af hjarli
(kœnn med krapti hreinum
Kristr tœdi gram) flœdu.
Ognmildr lét þá öldum
ödlíngr, sá er gaf hrínga,
(þjód tók glöd vid gódum
guds ár) trú bodna.

10. Hardrádum gekk heidis
hjaldrmagnadi skjaldar
skatna ætt á skreytta [5])
skotjörd loga fjardar.

[1]) *motod*, *afskr.* [2]) *hár*, *afskr.* [3]) *ráda*, *afskr.* [4]) *margspáin*, *afskr.*, *sb.* 21, 5. [5]) *skreyta*, *afskr.*

---

8. er: sárlómr, hræfugl, hans mötodr, hermadr; ok vel drengila, þ, e. vel ok drengilega.

9. er: þíngat, þángad ɔ; til Noregs; tœdi, hjálpadi; flœdu, hafa flúid. Guds ár. guds erindsreki,

10. er: skotjörd heidis (hauks), hönd; meiníngin er: gekk á hönd honum. Hjaldr skjaldar, bardagi, hans magnadr, hermadr, konúngurinn,

Lýd gat lofdúngr ráda
(landherr frá sid vândum
þá hvarf allr, ok illum)
ólítt (godum nitti [1]).

11. Ok fimm, sá er gaf gumnum
glólista, vann kristin
ljót, brinnandi [2]) lautar [3]),
lönd elbodi Göndlar [4]).
Hvern viti hjálma þornar
(hann var ríkstr konúngmanna)
elda runn, er unni
eljon slikt at telja?

12. Hraustr vann Hjaltland kristnad
hlífar þeys, sem Eyar,
stýrir stekkvi-fýra
stalls [5]), ok [6]) Noreg allan.
Lét á Grœnland gætir
gunnblídr komid sídan
vængjum vallar hrínga
vegsamr trú ramri.

[1]) *þetta ord vantadi í afskr.* [2]) *birnandis, afskr.* [3]) *lautan, afskr.* [4]) *gundlar, afskr.* [5]) *stulks, afskr.* [6]) *sem, afskr.*

---

11. er: glólisti lautar, sjór, hans brinnandi (eldr) gull; vann kristin, kristnadi; eldr. sverd, elda runnr, madr; unna eljon, géta.

12. er: þeyr, vindr, hlífar, þeyr, bardagi, hans stekkvi-fýr, sverd, þess stallr, skjöldr, hans stýrir, konúngrinn. Hríngr, sverd; þess völlr, skjöldr (land vopna); vængjum-ramr, vængsterkr, vængjum röm kallast kristin trú, af því hún flaug um mörg lönd.

13\. Vítt stód ógn af ýti
(íslenzkum her vísi)
orms vallar (baud allan
aldr guds lögum halda).
*S*va lèt rèttur, hinn er rítar
rjódendr um-vann, gódar,
reyrs, vid [1]) rádi voro
réttdœmr konúngr settar.

14\. Egum (lánga lægis)
lidrœkjanda frœknum
(hyrstrídir braut heidni)
hjálmraunar þat launa.
Hríngs hefir þarfastr þengill
þrymdraugum sá bauga
(herr nýtr hodda þverris)
híngad nordr um-ordinn [2]).

15\. Öll var hrædd vid hollan
hrafni elgbjód stafna
(vítt baud ödlíngr ýtum)
óþjód (sídu góda).

[1]) *vard*, *afskr.* [2]) *ordin*, *afskr.*, *en kannské þad egi ad vera ordit.*

---

13\. er: rétta, stod, setja réttur vid rádi eins, stydja, bœta rád eins; rítar reyr, sverd.

14\. er: hjálmraun, bardagi, hjálmraunar lid, strídsmenn, þess rœkjandi, konúngr. Hríngs þrymr, bardagi, hans baugr, skjöldr, hans draugr (vidr), madr, annars mætti taka saman nýtr bauga. Herr, landslýdr, einsog 13, 2.

þann visso gram Gunnar
grímo fárs, þeir er vâro,
sannmidjúngar svinna [1])
sér leidastan, heidnir.

16. Hreinbyggvir lét höggva
hrófs af mörgum þjófi,
hinn er um hvert rád kunni,
hendr edr fœtr, at bœta.
Hòrvetna lèt hjörva
hrídeflöndum vída –
austr, þeims unnu löstu,
ósid jöfurr kvidjat [2]).

17. * * * * tafni.
Hjörr [3]) reid, en sveif sídan
sundvargs boda mörgum
(hæstr vard geirs at gusti
grams tír) af bol svíri.

18. Firdi hjörr vid herdar
haus; sagdi frid lausan
dylgjo reyr id dýra
(drósk álmr fyrir gram [4]) hjálmi.

[1]) *betr kynni eg vid svinnan.* [2]) *hér vantadi tvö blöd í skinnbókina.* [3]) *orr, afskr.* [4]) *grams, afskr.*

15. er: Gunnar gríma. hjálmr, hans fár, bardagi, hans sannmidjúngar, menn.

16. er: hrófs hreinn, skip. Hòrvetna, hvarvetna, einsog hotvetna f. hvatvetna. kvidja, banna.

17. er: sundvargr, skip, þess bodi, madr; svíri er hér höfud.

18. er: dylgja, ófridr, stríd þess reyr, sverd.

Norn kom flærd at fjörnis
[fólktjald rufu]. skjaldum [1])
(sár frá ek snörpum dreyra
seggjum) [lángbards eggjar].

19. Frægs stillis vard falla]
ferd [2]), en (beitt var sverdum:
endr kom brúnt á branda
blód) vard autt um gódan.
Auk [3]) und jöfri frœknum
Ormr hraudst; en felt raudu
Eiriks hird, ádr yrdi
jarls rád fyrir hjarli.

20. Hrafngreddir stód, hoddum [4])
hættr [5]), jafnt sem ætti [6]),
linns í lypting sinni
látrkœnn, fjör þrennin [7]).

[1]) *skjaldir*, *afskr.* [2]) *frid*, *afskr.* [3]) þ. *e. ok* [4]) *hoddan*, *afskr.* [5]) *hattr stód*, *afskr.* [6]) *atti*, *afskr.* [7]) *þrenni*, *afskr.*

---

Norn fjörnis (hjálms) öxi; flærd, skadi. Fólktjald, skjöldr. Lángbardr, sverd.

19. er: ferd, lid. Falda (feld, felt, faldit), sama sem falda (faldadi, faldad): falda raudu, hafa raudan höfudbúníng, hèr, ad fá höfudsár.

20. er: greddir, sá sem gerir gráđugan, í hermanns kènníngu; hoddum hættr, mildr af gulli; linns látr, gull. þrennin, þrenn, þrjú.

Yggs þikkjumst ek ekki
ógnblídustum sídan
hjaldrs frá hoskum gildi
hafa sannfregit annat.

21. Gladdr sté jarl á eyddan
(el vigra þraut [1]) sigri
grimmr med gengi framlikt
Grábak móins akra [2]).
Lét ófám [3]) ýtis [4])
elds lödar hal daudum
vitr af vanar otrum
verdúng á kaf [5]) stúngit.

22*). Skaut á grœnt med grjóti
grár ægir ná sárum
(lágu lidsmenn bjúgir)
land (sem brúk [6]) um strandir).

[1]) *þaut, afskr.* [2]) *vakra, afskr.* [3]) *ófáin, afskr.* [4]) *yfir, afskr.* [5]) *krjáf, afskr.* [6]) *brukk, afskr.*

*) Mēr finnst náttúrlegra, ad 23. vísan standi hér, en þessi þarnæst.

---

21. er., vigr, spjót, el vigra, orusta. Grábakr, ormr; hér, ormrinn lángi, móins akra (gulls) grimmr sama sem hoddum hættr. 20- Lödar (ladar) eldr, gull. Verdúng, hird. Vânar (ár) otr, skip.

En fjadrdekkum flokkum,
flugu hrafns at þar [1]) nafnar;
skygnum [2]) skæda sögnum [3])
skógs háng var þángat.

23. Ok andvönum [4]) Endils
ítrskíd á [5]) dreif sídan
sannjördúngum sennu [6])
sveif hundrudum undir:
svá at glójardar gerdi
gylfa skíds (um vídi
búkr hné margr [7]) fyrir mæki)
meinfœrt [8]) um lög hreinum.

24. Slód drap svángt [9]) til grædis
(sá vargr [10]) rekinn margan
höggvinn mann or hrönnum [11])
hlaupstód [12]) jötuns [13]) módor;

[1]) *því*, *afskr.* [2]) *skygn um*, *afskr.* [3]) *sognum*, *afskr.* [4]) *andvonum*, *afskr.* [5]) *ítr skída*, *afskr.* [6]) *sannjördúnga seima*, *afskr.* [7]) *magr*, *afskr.* [8]) *meinnfært*, *afskr.* [9]) *svángs*, *afskr.* [10]) *varg*, *afskr.* [11]) *hramum*, *afskr.* [12]) *hlaup stód*, *afskr.* [13]) *í túns*, *afskr.*, *óglögt í skinnbók.*

---

22. er: skæda sagnir skógs, skógarins skædu flokkar, úlfar; háng, lyst, laungun, á dönsku og þýzku Hang, ensku hank.

23. er: Endils skíd, skip; njördúngar sennu, strídsmenn. Glójörd gylfa skíds, sjór, hans hreinn, skip; meinfœrt, torfœrt.

24. er: hlaupstód jötuns módor, úlfar;

Fœtr [1]) bar fálu sóti
(fjörrán) í val grána
(ádr beid herr [2]) fyrir haudri),
húngrtraudr en frá rauda.

25. Nádi jörd ept ordna
Eiríkr þrimo geira;
hans rádum vard hlýda
hverr brimröduls þverrir [3]).
Hnípti drótt ok drúpti
(döpr þjód var þar), Fróda,
fold, þann er flest gaf höldum
fagrbygg, of [4]) son Tryggva.

26. Borit hef ek hródr, en hjörva [5])
hóf samdi vel, lófa
elda, þeys, fyrir áso,
ítr, mestr at hlut flestum.
Adr mun, óss en glóda
elris [6]) þreyk [7]), at veikum [8])
greppr, megi öllum yppa,
örnfljótr [9]) brag þrjóta.

[1]) *fótr, afskr.* [2]) *þjód, afskr.* [3]) *þverir, afskr.* [4]) *ok, afskr.* [5]) *hjörfi, afskr.* [6]) *ellris, afskr.* [7]) *þrekk eda þreik, afskr.* [8]) *verkum, afskr.* [9]) *ornfljótr at, afskr.*

---

fálu sóti, tröllkonu hestr, úlfr; gránn, grár.

25. er: brimrödull, gull, þess þverrir, madr; fagrbygg Fróda, gull.

26. er: eldr lófa, gull, þess áss, madr; hjörva þeyr, orusta; óss glód, gull, þess elrir (vidr), madr; þreykr, þrek, hreysti-bragd.

27. Furr lètu frœkna gjörva
fenskúfs vala benja [1])
frídri [2]) skáld um fœdi
fagrbjórs en vèr tókumst.
Eygi fleygs fyrir því þeygi
þann vissa ek hlun manna
geirs frá geymi-árum
* * * * * * * * [3]).

28. Veittu þess, er vída bœtti
vârt edli, stad bjartan,
heilagr Kristr, ok hæsta [4])
hlíf þjódkonúngs [5]) lífi!
þvíat skýtjarnar [6]) skreytir [7])
skíds Olafi frídri
vögnu [8]) láds und vídu
verdr aldregi tjaldi.

[1]) *beima, afskr.* [2]) *fridr i, afskr.* [3]) *þetta vísuord vantadi í afskr.* [4]) *hæsti, afskr.* [5]) *þjódkonúngur, afskr.* [6]) *skyrarnar, afskr.* [7]) *skrýtir, afskr.* [8]) *vognu, afskr.*

27. er: benja völr, sverd, þess fen, blód, þess skúfr, hræfugl, hans fœdir, hermanns kénníng.
28. er: skýtjörn, regn, þess tjald, himin; vögnu lád, sjór (7, 7), hans skíd, skip, þess skreytir, madr.



## Þ E S S A R   V Í S U R
### má svo fœra til rétts máls.

1. Ek bid einn yfirhilding aldar hverrar ættar, Þanns stýrir mestum mætti, beina mèr hródtölu: Þvíat ek skal, gud drottinn, vanda brag Þínum veglyndum vin, Þeim er baud ótta fögrum bjartleyg Rínar.

2. Mætr snjallr stólkonúngr sólar hefir látid mik verda minna bragar en sómdi sverdels Þolli; Þó vil ek smída lof ítrum Þróttar skýa eldveitanda, Þeim er engr beima var alfrídri.

3. Ungr vördr ýta, sá er efndi œskigaldr stála vid aldir í Gördum, var nefndr Olafr fyrir mèr. Hafs eldstökkum sásk ekki, nema öll heims bygd hygdi vel snjöllum hilmi jöfra, syni Tryggva (*eda:* sákk ekki, nema öll heims bygd hygdi vel snjöllum hafs-eldstökkum hilmi jöfra, syni Tryggva).

4. Rádfimr audmildr reggstrindar jóskreytandi bad snimma ýta bera raudar randir á skip. Framr konúngr reist foldar hríng bördum til fengjar frá fóstrjörd, en gódar sýgjur könnudu flód.

5. Vídfrægr varga nistir hèlt lagar skídum vestr á vit Englands; ár raud úngr branda í Þeirri. Errinn ödlíngr vann fyrr efnda hefnd síns födur, en fengi Noreg; eingr harri var dýrri hilmi.

6. Bjódr víga bords, sá er vann mikla rausn, rak hernad vestr med gengi Þjódar, ok fèkk erni verdar. Ek frá endr brendar borgir á Irlandi, Þar er vígmódr vísi um-kom glódum; brandr gall, vè Þlèsu.

7. Ból brunnu, en armir Skotar runnu til skógar; gnógr limgarmr vann lýda sveit böl, ádr lètti. Ok heidinn vápnbautinn herr, um-eignadr Gauti, fèll vítt fur þverri vögnu hrynslódar elda.

8. Lista snarr sárlóms mötodr bar sigr or hverri rómu; randa hreggbjódr gekk hæst, hvar lands er kom. Gnóg víst var vel ok drengila fengin margspám grám vargi, ádr mærr mildíngr færi vestan.

9. Adr ýngvi kom austr þíngat, frá ek jarl flædu af hjarli; kœnn Kristr tœdi gram med hreinum krapti. Þá lèt ógnmildr ödlíngr, sá er gaf hrínga, bodna trú öldum; þjód tók glöd vid gódum guds ár.

10. Ætt skatna gekk hardrádum skjaldar hjaldrmagnadi á skotjörd heidis, skreytta fjardar loga. Lofdúngr gat ráda lýd ólítt; þá hvarf allr landherr frá vandum sid ok nítti illum godum.

11. Ok elbodi Göndlar, sá er gaf gumnum brinnandi lautar glólista, vann kristin fimm ljót lönd. Hvern elda runn viti, hjálma þornar, er unni eljon at telja slíkt? Hann var ríkstr konúngmanna.

12. Hraustr stýrir hlífar þeys stekkvi-fýra stalls vann kristnad Hjaltland, sem Eyar ok allan Noreg. Gunnblídr vegsamr gœtir hrínga vallar gat sídan komit vængjum-ramri trú á Grænland.

13. Ogn stód vítt af ýti orms vallar; vísi baud íslenzkum her halda guds lögum allan aldr. Svá lèt rèttdœmr konúngr hinn er umvann rjódendr rítar reyrs, settar gódar rèttur vid vóro rádi.

14. Lægis hyrstrídir braut lánga heidni; eigum launa þat fræknum hjálmraunar lidrœkjanda. Sá þengill hefir um-ordinn (ordit) þarfastr hríngs þrym-bauga draugum híngat nordr; herr nýtr hodda þverris.

15. Öll ójjód var hrædd vid stafna elgbjód hollanhrafni: ödlíngr baud ýtum-vitt góda sídu. Þeir sannmidjúngar Gunnar grímo fárs, er varo heidnir, visso þann svinnan gram sér leidastan.

16. Hrófs hreinbyggvir, hinn er kunni at bœta um hvert rád, lèt höggva hendr edr fœtr af mörgum þjófi. Hjörva hríd-eflöndum, þeims unnu löstu vída austr, lèt jöfurr hòrvetna kvidjast ósid.

17. * * * * tafni. Hjörr reid, en svíri sveif sídan af bol mörgum sundvargs boda; grams tír vard hæstr at geirs gusti.

18. Hjörr firdi haus vid herdar: id dýra dylgjo reyr sagdi hjálmi lausan frid: álmr drósk fyrir gram. Nornfjörnis kom flærd at skjaldum: lángbards eggjar rufu fólktjald; ek frá sár dreyra snörpum seggjum.

19. Sverdum var beitt: brúnt blód kom endr á branda; ferd frægs stillis vard falla, en autt vard um gódan. Ok Ormr hraudst und frœknum jöfri; en hird Eiríks felt raudo, ádr jarls ràd yrdi fyrir hjarli.

20. Hoddum hættr hrafngreddir linns látr-kœnn, stód í sinni lyptíng, jafnt sem ætti þrennin fjör. Ek þikkjumst ekki hafa sannfregit annat frá hoskum ógnblídustum gildi Yggs hjaldurs.

21. Jarl, grimmr móins akra, gladdr sigri, sté á eyddan Grábak med framlikt gengi; el vigra þraut. Vitr verdúng ýtis lödar elds lèt stúngit ófám daudum hal á kaf af vanar otrum.

22 (23) Grár ægir skaut sárum ná á grœnt land med grjóti; lidsmenn lágu bjúgir um strandir, sem brúk. En nafnar hrafns flugu fjadrdekkum flokkum þar at; skygnum skæda sögnum skógs var háng þángat.

23 (22). Ok andvönum sennu sannjördúngum sveif sídan hundrudum á dreif undir ítrskíd Endils, sva at hreinum Gylfaskídsglójardar gerdi meinfœrt um lög; margr búkr hné fyrir mæki um vídi.

24. Svángt hlaupstód jötuns módor drap stód til grœdis: vargr sá margan höggvinn mann rekinn or hrönnum. Fálo sóti bar grána fœtr í val, en rauda frá, húngrtraudr; herr beid ádr fjörrán fyrir haudri.

25. Eiríkr nádi jörd ept ordna geira Þrimu; hverr brimröduls Þverrir vard hlýda hans rádum. Drótt hnípti ok fold drúpti of son Tryggva, Þann er gaf höldum flest fagrbygg Fróda; Þar var Þjód döpr.

26. Ek hef borit hródr fyrir Aso lófa elda; en hjörva Þeys ítr, mestr at flestum hlut, samdi vel hóf. Örnfljótr greppr mun ádr Þrjóta at veikum brag, en megi yppa öllum Þreyk óss glóda elris.

27. (verdr ei fœrd í röd, Því, 4da og 5ta vísuordid mun vera rángt, og Þad 8da vantar).

28. Heilagr Kristr! veittu lífi Þess Þjódkonúngs, er vída bœtti vart edli, bjartan stad og hæsta hlíf! Þvíat aldregi verdr skreytir vögnu láds skíds frídri Olafi und vído ský-tjarnar tjaldi.

---

Þann 29da Janúaríí 1832 verdr hátíd haldin af Bessastada Skóla, í minníngu fædíngardags vors allranádugasta Konúngs FRIDRIKS SJÖTTA; bidjum vèr því, med þessu bodsriti, audmjúklega og ástsamlega Skólans Forstjóra og adra Skóla vini og velunnara, ad þeir vilji ásamt med oss þessa hátíd halda Gùdi og Konúnginum til verdugs lofs og heidrs.

Bessastödum þ. 2. Jan. 1832.

